# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

17. ÁRG. WINNIPEG, NÓVEMBER 1902. NR. 9.

## Náðin og sannleikrinn.

**Sálmr eftir séra Valdemar Briem,**

út af Jóh. 1, 17.

(Lag: Andinn guðs lifanda', af himnanna hæð.)

1. Ein veit eg systkin svo inndæl og blíð,
aldrei þau samvistum skilja,
komin af himnum til hjálpræðis lýð;
heiminum líkna þau vilja.
Hver eru systkin þau sífellt þráð?
Sannleikr annað, en hitt er náð.

2. Allt eins og hitinn og ljósið um láð
lifa þau saman hér bæði,
birtandi sannleikr, blíðkandi náð,
blessuð oss fœrandi gœði.
Eldrinn hita og ljós oss ljær,
lausnarinn sannleik og náð oss fær.

3. Viljir þú eilífa sannleikann sjá,
svölun þú náðar skalt reyna.
Blessaða náðina' ef fýsir þig fá,
feril þræð sannleikans hreina.

Lýsi þér sannleikr líknar braut,
leiði þig náðin í sannleiks skaut.

4. Hver gefr sannleika? hver gefr náð?
hver gefr lífið hið sanna?
Varmann og birtuna breiðir um láð
blessaði frelsarinn manna.
Fylling guðs sannleika flytr hann,
fylling guðs náðar við sérhvern mann.

## Hvernig stóð á því, að múrar Jeríkóborgar hrundu?

Eftir dr. H. Clay Trumbull,

ritstjóra blaðsins *Sunday School Times.*

Kraftaverk þau, sem frá er sagt í biblíunni, hafa það sérkenni við sig, að þótt þau sé yfirnáttúrleg, eru þau þó ekki ónáttúrleg. Í því tilliti stingr þeim algjörlega í stúf við töfraundr þau, sem fyrir koma í austrlenzkum æfintýrum. Guð notar náttúruöflin, þótt hann við notkan og stjórn þeirra beiti krafti þeim, sem er óvanalegr og sérstaks eðlis. Hann gjörir það þá er honum gott þykir til þess að hafa það fram, er hann vill. Þannig er það í sögu þeirri, sem nú er um að rœða. Að hrun Jeríkóborgar-múra hafi verið guðlegt kraftaverk er ekki að efa. Engu að síðr er eðlilegt, að spurt sé: Stendr ekki hrun múranna og það að borgin svo var unnin af Ísraelsmönnum í sambandi við það, hvernig á stóð þar á staðnum, og fyrirmæli þau, sem þeir fengu um það, hvað þeir skyldi gjöra meðan á umsát borgarinnar stóð?

Í sex daga hvern eftir annan gekk hinn fjölmenni her Ísraelslýðs hringinn í kring um borgina í samfelldri, reglubundinni fylking. Og á sjöunda deginum var slík hringganga marg-endrtekin af gjörvöllum fólksskaranum. Og tafarlaust þar á eftir œptu hermennirnir allir eins og með einum munni óp mikið. Hvort myndi það, að múrar hinnar dœmdu borgar tóku að riða og hrundu síðan niðr, ekki að einhverju leyti

hafa átt rót sína að rekja til þess alls, er á undan var gengið? Hvort myndi allt þetta, sem hér fór fram beint eftir boði drottins, að eins hafa átt að vera til sýnis frammi fyrir augum lýðs drottins og óvina hans? Er ekki eðlilegt að líta svo á eftir því, sem menn á vorri tíð þekkja til, að náttúru-öflunum hafi hér verið beitt til þess á eðlilegan og óyggjanda hátt að koma því til leiðar, sem fram kom?

Allir kannast við það, að það muni geta haft meir en lítil áhrif á það eða það mannvirki, komið því til að titra meir eða minna, jafnvel svo mikið, að því sé hætta búin, ef fjölmennr her gengr þar yfir eða framhjá með jöfnum skrefum. Við uppgönguna á stórum hengibrúm yfir ár og gil er vanalega fest upp auglýsing til þess að áminna fyrirliða herflokka um að láta liðsmennina hœgja þar á sér, vara þá við að hafa þar reglulega hergöngu. Mönnum er það með öðrum orðum vel kunnugt á vorri tíð, að sveiflu-hreyfing sú, er leiðir af reglubundnu fótataki fjölmennra fylkinga á hergöngu, getr háskalega veikt stór og mikil mannvirki, sem komið hefir verið upp og um búið samkvæmt fullkomnustu reglum nútíðarverkfrœðinga. Má ekki ætla, áð eins hafi verið fyrir meir en þrjú þúsund árum?

Lofthristingr af skothríð úr fallbyssum eða af grjótsprenging í nánd við múrveggi verðr einatt á vorum dögum orsök þess að veggirnir springa, þrátt fyrir það þótt mjög sterklega sé um þá búið. Þetta kemr á þessari tíð fyrir bæði í Evrópu og Ameríku. Er ekki góð og gild ástœða fyrir þeirri ætlan, að eins hafi verið í Kanaan forðum daga?

Eftir því er að muna, að undirstaða Jeríkó-borgar og svæðið þar út frá var ekki eins og þar sem Petra*) stóð eða bœirnir sumir í Efra Egyptalandi, samfelld hörð klöpp. Jarðvegrinn meðfram Jórdan hið neðra og umhverfis Dauðahafið var víða jarðbik og asfalt. Á því svæði er og mikið um olíubrunna. Fyrir þær sakir hafa titrandi loftöldur, sem koma í samfellu, mjög mikil áhrif á landið þar. Enn fremr er þess að gæta, að borgarmúrar þeirrar tíðar í því landi voru ekki til

*) Petra (þ. e.: Klettborg) var lengi höfuðból í Edomslandi og lá í hvylft einni í Seirsfjalli suðr frá Dauðahafinu.

þess gjörðir að vera vörn gegn skothríðum eða púðrsprengingum. Efni slíkra múra var vanalega tígulsteinn óhertr í eldi, úr leir eða moldarleðju og jarðbiki. Til þessa alls þarf að taka tillit, þegar um öfl þau er að ræða, sem líklegt er að hafi haft eyðileggjandi áhrif á slík mannvirki.

Eftir fyrirmælum drottins umkringdu Ísraelsmenn borgina og gengu í reglubundinni hergöngu með prestunum blásandi í lúðra sína í broddi fylkingar sex daga hvern eftir annan umhverfis borgarmúrana. Aldrei var snúið til baka á hergöngunni, og aldrei hægðu menn á sér til þess að draga úr lofthristingnum. Annað eins afl hlýtr að hafa haft áhrif, sem um munaði. Á sjöunda deginum var þessi jafna herganga gjörvalls fólksskarans umhverfis múrana endrtekin sjö sinnum. Loftsveiflurnar, sem af þessu leiddu, svona margar og svona reglubundnar í sífellu, hljóta að hafa haft það í för með sér, að annað eins mannvirki og borgarmúrar þessir hafi tekið að skjálfa og riða. Og þetta kom eins og í ofanálag á áhrif þau, sem rósemi hinna trúarsterku fjölmörgu umsátrsmanna og hið óbifanlega traust þeirra á drottni hafði á hugi heiðingjanna innan borgar.

Eftir allan þennan undirbúning, sem guð sjálfr stýrði, kom allt í einu feikna-mikill brestr eða dynr samfara því, er gjörvallr hinn aðsækjandi herskari æpti óp eitt mikið, sem skar í eyrun og klauf loftið sundr. Fyrirfram hafði mönnum Ísraels öllum verið sagt, að þegar prestarnir með lúðrblæstri gæfi merki, þá skyldi þeir æpa hið mikla óp. Þá er hið rétta augnablik var komið, kallaði Jósúa til fólksins og sagði: „Æpið heróp! Drottinn hefir gefið yðr borgina.“ Og — „þegar það heyrði lúðrahljóminn, æpti það heróp mikið. Múrarnir hrundu þá, og fólkið gekk inn í borgina, hver hið gegnsta fram undan sér. Þannig unnu þeir borgina“ (Jós. 6, 20. 21). Þeir, sem af eigin reynd vita, hvílíkt voða-afl lá í herópi norðanmanna eða sunnanmanna í hinni miklu borgarastyrjöld vorri, geta vel skilið, hvílík áhrif það hefir, þegar tíu þúsund munnar hrópa út í loftið af öllum mætti á sama augnabliki.

Á þennan hátt virðist drottinn hafa veitt herskörum Ísra-

elsmanna mátt til þess að vinna Jeríkóborg. Kraftaverkið var fólgið í fyrirmælum þeim, er komu frá drottni, en ekki í því, hvernig Jósúa lét þeim framfylgt. Þekking nútíðarinnar og ávöxtr sá, sem hún hefir borið til framfara, hjálpar oss til að skilja það, sem Jósúa gat enga grein gjört sér fyrir. En kraftaverkið er engu að síðr kraftaverk fyrir það, þótt guð hafi sýnt oss, hvernig á því stóð, að hann gaf fyrirskipanir þær til þess að koma því fram, sem Jósúa fékk frá honum, en skildi ekki. Eg hlustaði eitt sinn á fyrirlestr, sem dr. Joseph Leidy, hinn frægi náttúrufrœðingr, hélt á opinberri samkomu. Var hann þar að útskýra heilbrigðis-fyrirmælin í lögmáli Mósesar, og komst hann þá svo að orði: ,,Eg veit ekki, hvernig á því stendr; en það vekr undran vora, að svo virðist sem sá maðr — Móses — hafi á einhvern hátt á þeirri fornu tíð gefið þær fyrirskipanir, sem nú er sýnt að eru algjörlega samhljóða beztu og fullkomnustu kenningum náttúrufrœðinga á allra síðustu tímum.“ En það er engin sönnun fyrir því, að drottinn hafi ekki framkvæmt kraftaverk á dögum þeirra Mósesar og Jósúa. Og fögnum yfir því, að hann er til þess búinn að láta sama mátt og sama kærleik koma fram oss til handa sem þeir sér til fagnaðar af hans hálfu reyndu á sinni tíð.

# Hin ,,hærri kritík“.

Eftir séra Rúnólf Marteinsson.

III.

Nú vil eg leyfa mér að minnast nokkuð á fyrirlestr séra Friðriks J. Bergmanns í ,,Aldamótum“ (XI. árg.). Því verðr ekki neitað, að sá fyrirlestr er oss, sem aðhyllumst hina gömlu skoðan á biblíunni, mikið hryggðarefni. Reyndar kemr höfundrinn þar fram með stakri kurteisi og hógværð. Hann talar þar með hinni mestu stilling og gætni um þetta ágreiningsatriði gömlu og nýju skoðanarinnar á biblíunni. Hann getr ekki einungis umborið það, að honum sé mótmælt, heldr lætr hann beinlínis í ljósi ánœgju sína yfir vörninni til su ðnings gömlu skoðaninni, sem átt hefir sér stað hér vestra

og óskar eftir því að hún haldi áfram. Þrátt fyrir þetta fyllir hann í þessum fyrirlestri flokk þeirra, er andœfa gömlu skoðaninni, og það þykir oss sárt, þar sem svo mikils metinn bróðir vor á í hlut, ekki sízt sökum þess, að vér höfðum ástœðu til, af fyrirlestri hans um gamla testamentið og ritdeilu hans við Helga Pétrsson um sköpunar- og syndaflóðssöguna, að telja hann einn hinna öflugustu varnarmanna gömlu skoðanarinnar í kirkjufélagi voru.

Það að vér skulum telja annað eins og þetta hryggðarefni er af talsmönnum nýju skoðanarinnar sjálfsagt álitið þröngsýni eða veikleiki. Bæði séra Jón Helgason og Einar ritstjóri Hjörleifsson hafa kveðið upp dóma sína yfir oss kirkjufélagsmönnum fyrir það ófrjálslyndi, sem þeim finnst koma fram hjá oss í því, að vilja síðr fá inn í félag vort presta, sem berðist á móti oss í þessu þýðingarmikla máli. Reyndar var það nú að eins einn prestr vor, sem talaði þannig, og hann talaði í sínu eigin nafni, en ekki í nafni kirkjufélagsins. En þótt allt kirkjufélagið hefði látið þetta í ljósi, hefði það þó verið undarlegt af þessum vinum vorum á Íslandi að tala eins og þeir gjörðu.

Eg get skilið það, að þeir telji skoðan vora á biblíunni háskalega ranga og að þeir ímyndi sér, að sú skoðan vor hafi mjög illar afleiðingar í för með sér í baráttu vorri fyrir kristindóminum. Mér getr skilizt, að þeir hugsi, að sín skoðan muni verða til hinnar mestu blessunar fyrir kristindóminn. En það finnst mér óheyrilegt skilningsleysi hjá þeim, að geta ekki rennt grun í það, að vér stöndum eins að vígi gagnvart vorri hlið málsins, að vor skoðan á biblíunni er oss óumrœðilega dýrmæt, og að vér teljum nýju skoðanina hættulega villu. Er það þá nokkurt ófrjálslyndi af oss, þótt vér ekki viljum menn inn í kirkjufélag vort til þess að kenna opinberlega það, sem vér álítum háskalegt og ósatt? Hvernig getum vér verið sjálfum oss samþykkir, ef vér vildum aðra eins meiningarleysu? Að heimta slíkt af oss er sama sem að fara fram á það, að vér vinnum á móti vorri eigin sannfœring, eða að vér leggjum ekkert upp úr því, sem vér sjálfir segjum að sé sannfœring vor. Önnur eins framkoma og þessi gefr grun

um það, að sannfœringin hjá talsmönnum nýju skoðanarinnar sé ekki mjög sterk, að þeir leggi ekki mikið upp úr sinni sannfœring, úr því þeir ætlast til þess, að vér lítilsvirðum skoðan vora. Ekki er heldr alveg laust við, að það bóli á þessu í fyrirlestri séra Friðriks. Hann segir á einum stað: ,,Hugr minn hneigist til hins nýja, eins og þegar er kunnugt.'' Samkvæmt þessu er hann fremr óákveðinn,—ekki ákveðinn í hinni nýju guðfrœði. Það er ekkert undarlegt, þótt maðr sé ekki ákveðinn gagnvart nýrri stefnu, og er ekkert út á það að setja. En svo kemr fyrirlestrinn í heild sinni með mjög ákveðna ,,hærri kritík'', og hvergi verðr, að mínu áliti, annað séð en að þar komi fram höfundarins eigin skoðanir. Eftir því er höfundrinn hikandi eða óákveðinn í sínum eigin skoðunum. Meira að segja hyggr hann sumt af því muni rangt vera, álítr ,,miklar líkur til, að ýmislegt breytist og þokist aftr nær hinu gamla''. Það er ekki laust við, að það sé ofr lítill hálfvelgjukeimr að þessu. Það lítr ekki út fyrir, að það sé mjög sterkt sannfœringarafl í þessu. Í svona alvarlegu máli ætti menn ekki að koma fram fyrir almenning með skoðanir sínar fyrr en þeir eru algjörlega sannfœrðir um að þær sé réttar, og það eru menn ekki, ef menn álíta, að þær breytist.

Mergrinn málsins í fyrirlestrinum er það, að þessi nýja guðfrœði sé ekkert annað en söguleg rannsókn biblíunnar, og sé því að eins brot af hinum sögulegu rannsóknum, sem beitt hafi verið á öllu sviði bókmenntanna og mannkynssögunnar hina síðastliðnu öld. Þessa sögulegu rannsóknaraðferð telr höfundrinn hinn eina veg að sannleikanum. Hann álítr algjörlega óhætt að trúa vísindamönnunum fyrir rannsókn biblíunnar til endilegrar úrlausnar, því þótt einhverjar villur kunni að slœðast inn, muni brátt koma leiðrétting á þeim. ,,Það er eðli vísindanna að leiðrétta sig sjálf''—segir höfundrinn. Af þessum ástœðum álítr hann, að hér eftir hljóti ,,uppruni, tilorðning og myndun hins helga ritsafns að hvíla á sögulegum grundvelli''. Hann er því fullviss um, að niðrstaða þessara rannsakenda sé svo nálægt óyggjanda sannleika, að hættulaust sé fyrir alla að fallast á mál þeirra. Með öðrum orðum: ú. því sögulegir rannsakendr hafi fundið sannleikann í mann-

kynssögunni, þá sé sjálfsagt að álíta, að þeir hafi uppgötvað sannleikann að því er biblíuna snertir. Svo er því bætt við eins og beinu áframhaldi af þessu, hvernig farið hafi verið með nýja testamentið á síðastliðinni öld. Rannsókn hafi verið hafin í sambandi við það af sömu tegund og nú á sér stað í sambandi við gamla testamentið. Sú rannsókn hafi haft blessunarríkar afleiðingar. Eins muni fara með þá rannsókn gamla testamentisins, sem nú stendr yfir. Þannig er þá röksemdafœrslan, og má segja, að hún sé heldr góð, þótt hún hafi sínar veiku hliðar.

Ekki dettr mér í hug að draga neitt úr því mikilvæga starfi, sem unnið var á sviði mannkynssögunnar síðastliðna öld. Eg er yfir höfuð að tala alls ekki á móti neinni rannsókn. Eg vildi helzt, að allir menn í heimi væri vísindalegir rannsakendr. Hafi allir slíkir menn þökk og heiðr fyrir öll þau sannindi, sem þeir á þann hátt grafa upp og leiða í ljós. En eg vil gjöra greinarmun á rannsókn og sannleika. Það er eins og þessum nýju mönnum sé nóg, ef það að eins heitir rannsókn. En það er engan veginn víst, að öll rannsókn komi með sannleika. Það er ekki alveg víst, þó rannsóknin hafi rétt fyrir sér í einu, að hún hafi satt að mæla í öðru. Það er ekki endilega áreiðanlegt, að núverandi gamla testamentis rannsókn sé í aðalatriðum rétt, þótt önnur henni alveg óskyld rannsókn, unnin af öðrum mönnum, hafi leitt í ljós mörg sannindi í sambandi við mannkynssöguna.

En auk þessa, sem hér hefir verið sagt, eru fleiri ástœður fyrir því, að niðrstaða höfundarins hvílir á veikum grundvelli.

Fyrst er það, að mannkynssögu-rannsóknin er að miklu leyti til lykta leidd, þar sem gamla testamentis rannsóknin aftr á móti stendr yfir. Þótt mörgum spurningum sé enn ósvarað í mannkynssögunni, má þó svo að orði komast, að það sé búið að ganga þannig frá sögu flestra menntaðra þjóða, að aðalatriðum í sögunni af viðburðum liðinna alda verði aldrei mikið breytt. En um gamla testamentis rannsóknina er það að segja, að enginn getr enn sagt, hvernig niðrstaðan muni verða, þegar henni er lokið. Það er því ekki réttlátt að bera verk, sem í aðalatriðum er þegar til lykta leitt, saman við

hálfunnið verk. Svo get eg ekki að því gjört, að mér finnst séra Friðrik gjöra of mikið úr því, hvað rannsóknin hafi umturnað mannkynssögunni. Mjög margt varð fyrir hana skýrara og menn sáu ástœður fyrir viðburðunum miklu ljósar en áðr; en eg held aðalatriðin hafi verið mikið til hin sömu eftir sem áðr. Þótt stundum kœmi fram stórkostlegar byltingaöldur, hjöðnuðu þær að mestu leyti niðr, og víst er um það, að rannsóknin hefir ekki neitt líkt því eins mikið umturnað mannkynssögunni eins og ,,hærri kritíkin" hyggst nú að gjöra við gamla testamentið.

Í öðru lagi fær séra Friðrik ekki mikinn stuðning af sögu nýja testamentis rannsóknarinnar. Eins og hann getr um gekk nýja testamentið á síðastliðinni öld í gegn um hreinsunareld rannsakendanna. Það voru guðfrœðingarnir við háskólann í Tybingen á Þýzkalandi, sem voru í broddi fylkingar í þeirri rannsókn. Verk þeirra í sambandi við nýja testamentið var yfir höfuð nákvæmlega hið sama, sem nú er verið að vinna í sambandi við gamla testamentið. Þeir héldu því fram, að allar bœkr nýja testamentisins, að undanteknum einum fjórum, væri ritaðar seinna en áðr hafði verið haft fyrir satt og af öðrum höfundum. Þær fjórar bœkr voru bréf Páls til Rómverja, Korintumanna og Galata. Þessar raddir létu til sín heyra um alla kirkjuna, og var lengi um þær kenningar barizt. En hver varð svo árangrinn af öllu því starfi? Séra Friðrik er víst trúanda til þess að segja hann ekki minni en hann var. Frásögn hans ber eðlilega vott um það, að hann reynir til þess að sýna árangrinn í sem fegrstu ljósi, því hann segir meðal annars: ,,Nýja testamentis rannsóknin hafði í sannleika mikinn og fagnaðarríkan ávöxt í för með sér." En hans eigið svar upp á spurninguna: Hver varð árangrinn?—, er þó ekki annað en þetta: ,,Sá, að hin mannlega hlið á frelsaranum....kom ljóst og greinilega fram." En það þarf enga ,,hærri kritík" til þess að leiða það í ljós. Það þarf ekki að breyta neitt um höfunda til þess, ekkert að raska hugsan manna um það, hve nær bœkrnar hafi verið fœrðar í letr. Það þarf ekki að breyta kenningunni um guðlegan innblástr hið allra minnsta til þess að sjá

frelsarann í biblíunni sem mann um leið og hann er guð. Til þess þarf ekkert annað en lesa blátt áfram það, sem stendr í nýja testamentinu. Þar eru allar þær myndir af manndómi frelsarans, sem til eru. Nýja testamentis rannsóknin uppgötvaði ekki neinar lýsingar á hinni mannlegu hlið frelsarans fyrir utan nýja testamentið.

Að séra Friðrik bendir ekki á neinn meira ávinning af nýja testamentis rannsókninni en þetta bendir heldr til þess, að hún hafi ekki orðið sigrsæl. Enda er það rétt. Nýja testamentið kom úr þessum hreinsunareldi hér um bil eins og það stóð áðr. Sömu höfundarnir voru almennt viðrkenndir eins og áðr en rannsóknin var hafin, og menn voru nú jafnvel enn sannfœrðari en áðr um það, að bœkrnar flestar hefði verið skrásettar á þeim tíma, sem kirkjan hafði almennt trúað. Vér, sem fylgjum gömlu skoðaninni, megum því vel una við það, að núverandi rannsókn gamla testamentisins sé líkt við nýja testamentis rannsóknina.

En satt er það, að nýja testamentis rannsóknin hafði ýmislegt gott í för með sér. Hið sama höfum vér talið sjálfsagt, að því er snertir hina núverandi ,,hærri kritík''; því drottinn framleiðir gott jafnvel af illu.

# Drottinn kallar.

**Prédikan eftir séra Björn B. Jónsson.**

(Flutt í Fyrstu lút. kirkju í Winnipeg, 21. Sept. 1902, og birt hér eftir áskoran frá ritstjóra ,,Sam.'').

**Texti: I. Samúelsbók, 3. kap.**

Enginn þáttr mannkynssögunnar er eins lærdómsríkr og saga guðs útvöldu þjóðar, Gyðinga, í fornöld. Hvergi sést eins ljóslega samband orsaka og afleiðinga, eins og þar. Hvergi kemr guð almáttugr eins bersýnilega fram í sögu mannkynsins, eins og þar. Saga Gyðinga er undr margbreytileg. Stundum rís þjóðin hátt upp yfir sjávarflöt þátíðarinnar og gnæfir til himins, en stundum sígr hún niðr af hæð trúarlegra og siðferðislegra yfirburða sinna, niðr að jafnsléttu

annarra þjóða. Og stundum kemr það enda fyrir, að hún sígr enn lengra niðr.

Það var á einni slíkri niðrlægingartíð, að það gjörðist, sem frá segir í kapítulanum úr fyrri Samúelsbók, sem hafðr er hér fyrir texta. Það var í lok dómaratímabilsins, eftir að Gyðingar höfðu búið í fyrirheitna landinu nærri því 300 ár frá því, er þeir komu þangað frá Egyptalandi. Aðal-stjórnarsetr og guðsþjónustustaðr landsins er nú borgin Síló. Þar gegnir öldungrinn Elí bæði dómara og æðsta prests embætti. Þegar saga þessi gjörist, er hann orðinn háaldraðr maðr. Elí hefir víst verið sérlega guðhræddr og góðr maðr, en hann skorti þrek til að kœfa niðr hina sívaxandi óreglu og siðspilling, er nú var komin fram meðal lýðsins og einkum sjálfrar prestastéttarinnar. Elí átti tvo sonu ; hét annar Hofní og hinn Píneas. Þeir voru báðir prestar og þjónuðu í Síló, og er að sjá sem þeir hafi verið búnir að taka mest ráðin af föður sínum ; þeir voru hræðilega siðspilltir menn. Þeir hugsuðu eigi um annað en að ábatast sjálfir á guðrœknis-athöfnum þeim, er þeir höfðu um hönd, og fylgdu aðrir prestar dœmi þeirra. Auk þess höfðu þeir margar svívirðingar í frammi. Elí fékk hér ekki rönd við reist. Hann hafði ekki agað syni sína meðan þeir voru ungir, og nú réð hann ekkert við þá. Elliár hans urðu því eymdarár og dauði hans ömurlegr.

Það var ekki að undra, þótt dimmt væri yfir landi og þjóð, þar sem svona var ástatt. Enda segir svo hér í textanum : ,,Og orð drottins var sjaldgæft á þeim dögum ; vitranir voru sjaldgæfar.'' Kennimannastéttin var spillt og ónýt ; guðs orð var gleymt eða rangfœrt ; guð almáttugr horfinn út úr sögunni. Ástandið hefir verið að sínu leyti eins og var í kirkjunni kristnu á dimmu öldunum rétt á undan siðabótinni lútersku. Spilling, eymd og dauði var yfir landi og lýð, sökum þess að ,,guðs orð var sjaldgæft''. Gamli dómarinn Elí fékk eigi að gjört, en syrgði og grét ástandið.

En guð hefir ekki gleymt sínu fólki ; hann uppvekr mann til að leiða það út úr myrkri til ljóss.

Upp við rœtr Efraim-fjalls, í Rama, búa hjón nokkur,

ráðvönd og guðhrædd. Maðrinn heitir Elkana, en konan Anna. Árlega koma þau til Síló til að fœra guði fórnir. Á öllu sést, að þau þau eru einkar bœnrœkin; en þau búa yfir mikilli sorg: þau eiga ekkert barn. Anna tók sér það svo nærri, að hún grét oft og sinnti ekki fœðu. Henni hefir, ef til vill, verið storkað og skapraunað af öðrum konum, því meðal Ísraelsfólks þótti það vanvirða mikil að vera óbyrja. Hún bar samt harm sinn í hljóði. En þegar hún var á bœn í guðs húsi, tjáði hún guði sorg sína. Eitt sinn, er hún kom til Síló með fórnir sínar, fann Elí prestr hana á bœn í bústað drottins. Hún baðst fyrir á þessa leið: ,,Drottinn allsherjar! ef þú lítr á eymd þinnar ambáttar og minnist mín og gleymir ekki þinni ambátt, og gefr þinni ambátt son, þá vil eg gefa hann drottni alla hans lífdaga.'' Elí hughreysti hana og fullvissaði hana um, að guð Ísraels myndi heyra bœn hennar. Og guð bœnheyrði hana. Næsta ár kom Elkana einn að fœra fórnir, en Anna var heima, því nú hafði hún nýfœtt barn á brjósti, og kvaðst eigi mundu fara til Síló fyrr en hún hefði vanið það af. Hún nefndi son sinn *Samúel*, sem þýðir ,,guð heyrir'',—,,því frá drottni hefi eg fengið hann með bœn'', sagði hún. Og er hún síðar hafði vanið sveininn af brjósti, fór hún með hann til Síló, að bera þar fram þakkarfórn sína. Hún fœrði Elí sveininn og mælti: ,,Um þennan svein bað eg, og drottinn veitti mér bœn mína, sem eg bað hann um; líka vil eg ljá hann drottni; svo lengi sem hann lifir sé hann guði léðr.'' Og svo söng hún hinn fagra lofsöng sinn. — Þetta er frásagan um fœðing Samúels, þessa ágæta manns. Hann var bœnarbarn. Hann fœddist í heimi bœnarinnar og ólst upp í þeim heimi frá fyrstu œsku. — En hvílík móðir, hún Anna! Hve marga presta, hve marga drottins þjóna myndum vér hafa vor á meðal, ef margar væri mœðrnar hjá oss Önnu líkar, guðelskandi og bœnheitar sem hún!

Samúel átti góða foreldra, en svo fékk hann líka gott uppeldi. Þegar í œsku var sveinninn látinn þjóna í ,,bústað drottins''. Þar var hann látinn gjöra smávik þau, er drengir geta gjört. Gæfa Samúels á rót sína að rekja til þessa upp-

eldis hans, ekki síðr en til foreldranna. Sé börnin upp alin í musteri trúarinnar og látin þegar í bernsku ,,þjóna" í drottins húsi með heilagri lotningu, þá eru fengnar miklar líkur fyrir því, að þau haldi áfram að vera þjónar drottins, þegar þau vaxa upp. Slíka þjónustusemi eiga drengir vorir einnig að læra, og er þeim gefið hið bezta tœkifœri til þess í sunnudagsskólunum og bandalögunum.

Þannig ólst sveinninn Samúel upp hjá gamla prestinum Elí. Hann var hreinn í hjarta og siðsamr; unni Elí honum því hugástum og huggaði sig við hann í mótlæti sínu. Svo var það eitt sinn eftir að Elí var orðinn gamall og blindr, en sveinninn var tólf vetra (eftir því, sem Jósefus segir), að Samúel er að vanda í bústað drottins og heyrir allt í einu að kallað er á hann með nafni. Það var nótt og enginn á ferli; dimmt var úti, en inni hjá Samúel logaði enn á ,,lampa drottins".— Sæll er hver sá drengr, sem ávallt lætr loga hjá sér á lampa drottins. — Það var guð sjálfr, sem var að kalla á þennan hjartahreina og velgefna dreng; en Samúel hélt það væri fóstri sinn Elí. Hann flýtir sér því til öldungsins og segir: ,,Hér em eg; — hví þú kallaðir á mig?" Elí sagðist ekki hafa kallað, og Samúel fór aftr á sinn stað. Svo var aftr kallað, og aftr kom Samúel til Elí; og í þriðja sinn var kallað, og enn kom Samúel til Elí. Þá skildist Elí það, að það myndi enginn annar vera en drottinn sjálfr, sem væri að kalla á Samúel, og nú segir hann drengnum, hverju hann skuli svara, ef enn á ný verði kallað. Þegar Samúel er svo kominn á sinn stað, kemr drottinn sjálfr til hans og segir: ,,Samúel! Samúel!" Og drengrinn svarar: ,,Tala þú, drottinn, því þjónn þinn heyrir." Svo talaði drottinn við Samúel og birti honum vilja sinn. Og Samúel gjörðist þjónn guðs og erindsreki hans. Öll æfi hans var svar upp á kallið frá guði; allt lífsstarf hans varð framkvæmd á þessu: ,,Talaðu, drottinn, því þjónn þinn heyrir."

Og fyrir starf Samúels hófst þjóðin upp úr niðrlæging sinni til vegsemdar. Samúel er eitt af hinum stóru vegamerkjum í sögu Gyðinga. Hann er síðastr dómaranna. Hann leggr í rauninni undirstöðuna undir hið veglega konungsríki,

sem hófst á hans dögum. Samkvæmt skipan frá guði smurði hann Sál til konungs. Og er guðs andi vék frá Sál sökum vonzku Sáls, þá fór Samúel að boði guðs til Betlehem og smurði þar unglinginn Davíð til konungs eftir Sál. Samúel var andlegr faðir Davíðs, og hann var sem faðir þjóðar sinnar meðan hann lifði; og þegar hann féll frá, harmaði öll þjóðin hann í langa tíð. Með Samúel byrjar líka raunar spámannsembættið í Ísrael. Hann er fyrsti spámaðrinn. Þetta bænarbarn guðhræddu móðurinnar, þessi þjónustudrengr prestsins í Síló varð leiðtogi heillar þjóðar, umskapaði allt þjóðlífið, kom á reglulegri siðbót í landinu. Svona vitjar góðr guð síns lýðs í eymdinni og vekr upp menn til að bjarga fólkinu. Þegar neyðin er stœrst, þá er guðs hjálp næst.

(Meginmál og niðrlag rœðunnar í næsta blaði.)

## Trúmálafundir í Minnesota.

Nýlega hafa verið haldnir samtalsfundir um kristileg trúmál í öllum söfnuðum prestakallsins í Minnesota. Voru á þeim fundum tveir prestar, séra Hans B. Thorgrímsen og heimaprestrinn þar í prestakallinu. Séra Hans kom þangað suðr eftir ósk safnaðanna og upp á þeirra kostnað 6. Nóv. Að kvöldi þess dags var hann á trúmálafundi bandalagsins í Minneota, er það kvöld hélt reformazíónarhátíð í félagi sínu. Næsta dag var samtalsfundr í Vestrheimssöfnuði í Austrbyggðinni. Var sá fundr sœmilega sóttr eftir atvikum. Umtalsefni á þeim fundi var: „Hvað gjörir manninn sælan?“ Séra Hans var þar málshefjandi og flutti langt erindi og uppbyggilegt. Þrír menn aðrir töluðu á fundinum. Að kvöldi þessa sama dags var samskonar fundr haldinn í kirkju St. Páls safnaðar í Minneota. Var þar tekið til umtals: „Skylda kristinna manna að vitna um frelsara sinn“, og hóf séra Hans þær umrœður með langri rœðu. Fundrinn var mjög fjölmennr, en sökum tímaskorts töluðu að eins fáir. Næsta dag (laugardag) var fundr haldinn í kirkju Lincoln-safnaðar í vestrbyggð prestakallsins, og var hann sóttr í meðallagi vel. Umtalsefni var þar hið sama og í Vestrheimssöfnuði: „Hvað

gjörir manninn sælan?" Var séra Hans enn aðal-ræðumaðr, og auk hans töluðu þrír aðrir. Sunnudaginn, sem á eftir fór (24. e. trín.), prédikaði séra Hans í tveim kirkjum, nfl. kirkju Vestrheimssafnaðar og kirkjunni í Minneota. Að kvöldi mánudagsins var trúmálafundr haldinn í Marshall. Voru þar rétt allir safnaðarmenn saman komnir og að auk nokkrir menn úr öllum hinum söfnuðunum. Umtalsefni á þeim fundi var: ,,Vor kirkjulegi arfr." Auk séra Hans tóku þar fjórir menn til máls. — Nokkru eftir miðnætti þá sömu nótt lagði séra Hans á stað heimleiðis, með kæru þakklæti frá söfnuðunum í Minnesota fyrir komuna. *B.*



Nú er hin nýja þýðing Jóhannesar guðspjalls komin út í Reykjavík frá nefndinni, sem þar er að eiga við yfirskoðan og endrbót íslenzku biblíunnar. Guðspjöllunum öllum er þar með lokið. Eftir því, sem formaðr nefndarinnar, Hallgrímr biskup Sveinsson, hefir áðr auglýst, mun séra Jón Helgason hafa verið aðalmaðrinn við þýðing þessa síðasta guðspjallarits. Verð þess er 12 aurar.

Sama má segja um þýðing þessa guðspjalls eins og hinna guðspjallanna, að kostað hefir verið kapps um að láta hana vera nákvæma eftir frumtextanum gríska. En víða í guðspjallaþýðingum þessum eru óþarfa-breytingar frá því, er áðr var í nýja testamentinu íslenzka. Og á stöku stöðum hefir nýja þýðingin orðið ónákvæmari en hin gamla. Í því tilliti skal bent á Jóh. 1, 23: ,,Eg er rödd manns, er hrópar í óbyggðinni." En í nýja testamentinu, sem nú er almennt notað af Íslendingum, stendr þar: ,,Eg em rödd þess, sem hrópar" o. s. frv. Alveg eins á samsvarandi stöðum í hinum guðspjöllunum (Matt. 3, 3 — Mark. 1, 3 — Lúk. 3, 4). Hér er ónákvæmni, þótt að eins virðist vera í smáu, og sú ónákvæmni getr haft trúarlega þýðing.

Á hina ónákvæmu þýðing skírnar-innsetningarorðanna Matt 28, 19 í hinni nýju útlegging hefir verið bent af hr. Östlund, aðventista-trúboða: ,,Farið og gjörið allar þjóðirnar að lærisveinum með því að skíra þá" o.s.frv. — í staðinn fyrir ,,skírandi þá".

,,Leggið netin" í Jóh. 21, 6 — í staðinn fyrir netið er líklega prentvilla.

En hvað er að segja um Jóh. 1, 14, sem svo hljóðar í nýju þýðingunni: ,,Og orðið varð hold og bjó með oss, — og vér sáum dýrð hans, dýrð sem eingetins sonar frá föðurnum, — *fullr* náðar og sannleika"?

Í Jóh. 18, 5 stendr í hinni nýju þýðing: ,,Eg er hann". En í eldri þýðingunni: ,,Eg *em* hann". Það hefir víst þótt of fornyrt. En myndi þá ekki orðmyndin ,,jartegn" (2, 11 og 4, 54) vera of forneskjuleg? Í stað þess orðs er annars oftast í guðspjallaþýðingum þessum haft ,,tákn" eða ,,teikn".

---

LEIÐRÉTTING: Eftir að lokið var prófarkarlestri á síðasta blaði ,,Sam." hefir við prentanina á hinum síðara kirkjuvígslusálmi hr. Magnúsar Einarssonar (bls. 127), fallið burt úr upphafi 5. hendingar 4. vers upphrópunarorðið *ó* (,,ó, þau gœði! ó, það fœði!"). Síðar höfum vér komizt að því, að höfundrinn ætlaðist til, að tvær síðustu hendingarnar í þeim sálmi (,,virzt að blessa" o.s.frv.) væri þríteknar.

---

BÓKAGJAFIR til bókasafns kirkjufélagsins: **a**) frá hr. Jóni Benjamínssyni í Pembina, N.-Dak.: Lærdómslista-Félagsrit 2., 3. og 4., 5. og 6., 7. og 8., 9. og 10., 11. og 12. bd., Khöfn 1780—1792, og 15. (óbd.). Orðabók Gunnl. Oddsens. Kh. 1819 (óbd.). Ó. Stephensen: Stutt Undirvísun í Reikningslistinni. Kh. 1785. Atli, búnaðarrit séra Björns Halldórssonar. Hrappsey 1780 (óbd.). Um sannrar guðhræðslu uppbyrjun og framgang. Frumrituð á ensku [Philip Doddridge: The Rise and Progress of Religion in the Soul. 1745], en þýdd á íslenzku (úr dönsku) af séra Jóni Jónssyni (í Möðrufelli). Kh. 1839 (óbd.). Partr af XII. deild Árbóka Espólíns (óbd.). **b**) frá hr. Stefáni Scheving í Winnipeg: Vídalíns postilla, 9. útg. Hólum 1776.

---

Hr. Ólafr S. Thorgeirsson, 644 William Ave., er féhirðir ,,Sameiningarinnar".

---



---

,,SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið ,,Kennarinn" fylgir með ,,Sam." í hverjum mánuði. Ritstjóri ,,Kennarans" er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa ,,Sam.": 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada,—Útgáfunefnd: JÓN BJARNASON, (ritstj.), FRIÐRIK J. BERGMANN, ÓLAFR S. ÞORGEIRSSON, BJÖRN B. JÓNSSON, N. STEINGRÍMR ÞORLÁKSSON.

Prentsmiðja Lögbergs. — Winnipeg.